**Skýrsla deildarinnar "Gimli" 1949**

Gimli deildin hefir aldrei verið eins vel starfandi síðan að hún var stofnsett. Aðsókn að fundum alltaf að aukast.

Fjórir starfs- og skemtifundir hafa verið haldnir á árinu. Kensla í íslenzku er starfrækt eins og að undanförnu. Kenslukonur við skólann eru sem hér segir: Mrs. Sylvía Kárdal, Mrs. Ingibjörg Bjarnason, Mrs. Kristín Þorsteinsson, Mrs. Lilja Kárdal og Mrs. Elín Einarsson. Frá 30—40 nemendur sækja skólann stöðugt einusinni í viku.

Samkoma var haldin í vor, þar sem allir íslenzku nemendurnir komu framá sjónarsviðið, með söng framsögn og upplestur, en aðal atriðið á skemtiskránni var leikurinn "Hlini Konungsson". Var þetta ágæt samkoma og vel sótt.

Einum af okkar starfsfélögum voru veittir $50.00 úr sjóði deildarinnar. Það var söngvarinn Ólafur N. Kárdal, sem nú er við söngnám í Minneapolis í Bandaríkjunum. Sá maður á það sannarlega skilið að við sýnum honum virðingar og þakklætis vott, því svo oft hefir hann skemt okkur með hinni fögru rödd sinni. Einnig gaf deildin $50.00 til skautaskála bæjarins og þar höfum við oftast fundi okkar.

Embættismenn deildarinnar fyrir komandi ár eru þessir: Forseti, Guðmundur Féldsted, vara-forseti, Sigurður Baldvinsson; skrifari Ingólfur N. Bjarnason; gjaldkeri, Elías Ólafsson.

Kærar kveðjur til þingsins.

G. Féldsted, forseti — Ing. Bjarnason, ritari

**Skýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Esjan" í Árborg, Manitoba fyrir árið 1949**

Tveir fundir voru haldnir á árinu, var annar þeirra ársfundur. Báðir þessir fundir voru allvel sóttir og bráð skemtilegir. Eina samkomu hélt deildin á árinu og heppnaðist hún mæta vel. Til skemtana var framsögn á íslenzku. Í henni tóku þátt um 20 unglingar á aldrinum frá 8—15 ára, engin dauðamerki voru á framburði þessara unglinga, enda var það dómur flestra samkomugestanna að sjaldan hefðu þeir heyrt unglinga lesa betur, en í þetta sinn. Sex ungar stúlkur sungu nokkur íslenzk lög undir stjórn Mrs. Florence Bradley, og var það ágæt skemtun. Síðast en ekki síst hélt Mr. Gillson, forseti Manitoba háskólans ræðu, þrungna af mannviti og góðvild. Gesti líka honum væri gaman að hafa, þó ekki væri nema einusinni á ári hverju. Deildin telur 99 meðlimi.

Tekjur hennar árinu 1949 námu:

| | |
|---|---|
| **Tekjur** | |
| Meðlimagjöld | $99.00 |
| Arður af Samk. | $133.25 |
| Í sjóði | $66.80 |
| Samtals | $299.80 |
| **Útgjöld** | |
| Til Þjóðræknisfélagsins | $39.00 |
| Bækur keyptar fyrir | $105.65 |
| Kaup Bókv. | $25.00 |
| Frímerki | .60 |
| Samtals | $173.62 |

Í banka við áramót, 1949 og 1950 ....$125.68

Bókasafn Esjunnar er að smá aukast, um og yfir $100.00 á ári er varið til bókakaupa. Deildin mun nú eiga um 1000 bækur, lang mesti hlutinn í góðu ásigkomulagi. Lesnar eru í kringum 600 bækur árlega af félagsmönnum.

Vinsamlegast
T. Böðvarsson

**Skýrsla deildarinnar "Ísland", Morden, Manitoba, fyrir árið 1949**

Deildin, þó fámenn sé, er með góðu lífi. Fjórir almennir fundir voru haldnir á árinu og voru þeir allir vel sóttir. Ein kona féll frá á árinu, Miss Oddný Gíslason.

Þar sem að fimtíu ár voru á þessu ári liðin frá því að Íslendingar fyrst settust hér að, ákvað deildin að standa fyrir fimtíu ára landnáms minningarhátíð og fór sú hátíð fram föstudaginn, 15. júlí 1949, í indælu veðri. Margt fólk var aðkomandi, einkum frá Dakóta, Winnipeg, Lundar og víðar, að. Forseti dagsins var Jón B. Johnson, en ræður fluttu séra Philip M. Pétursson forseti Þjóðræknisfélagsins, sem flutti kveðjur frá félaginu. Séra Egill H. Fafnis forseti kirkjufélagsins, flutti kveðjur frá þeim félagsskap, Guðmundur J.

Jónasson, forseti deildarinnar "Báran" í N. Dakota kveðjur frá deildinni, bæði í bundnu og óbundnu máli. Gamalíel Thorleifsson flutti kveðjur frá heimabygð sinni Garðarbygðinni. Aðal ræðu dagsins, fyrir minni landnemanna, og bygðarinnar, flutti Dr. Richard Beck, prófessor frá Grand Forks N. D. og var sú prýðilega ræða birt í íslenzku blöðunum. Mrs. J. Westberg frá Wallwood, Sask., flutti ávarp, en hún er dóttir eins landnemans í Morden-byggðinni (Árna Árnasonar) og ólst þar upp. Mrs. T. J. Gíslason las frumort kvæði eftir Jóhannes H. Húnfjörð í fjærveru höfundarins. Thorst. J. Gíslason einn af fyrstu landnemum byggðarinnar, rakti sögu hennar að nokkru, og lýsti frumbyggjalífinu. Einnig talaði Gísli Ólafsson sonur Olafs Árnasonar, landnema og sem hafði komið á samkomuna í Tjaldvagni (covered wagon) ásamt bræðrum sínum og frændum. Fleiri minjagripir frá landnámstíð voru þarna til sýnis. Á milli ræðanna söng blandaður kór og einnig karlakór undir stjórn Mrs. T. J. Gíslason. Einsöngva sungu séra Egill H. Fafnis og Petrína Sigurðsson, dóttir Tryggva O. Sigurðssonar landnema. Söngur þeirra beggja vakti mikla hrifning. Ánægjulegt og var að hlusta á barnaflokk syngja íslenzka söngva, undir stjórn Mrs. W. E. Ólafssonar (dóttir Jóns Gillis landnámsmanns) mjög vel og skilmerkilega. Að lokinni skemtiskránni, báru konur bygðarinnar fram ágæta máltíð undir beru lofti öllum að kostnaðarlausu og svo var dans stiginn framyfir miðnætti.

Að endingu vil eg geta þess, að sömu embættismennirnir voru endurkosnir og voru árið sem leið.

Með beztu óskum til þingsins

Með virðingu

**T. J. Gíslason**

**Skýrsla deildarinnar "Brúin" í Selkirk, Manitoba**

Yfirlit yfir gjörðir Þjóðræknisdeildarinnar "Brúin" í Selkirk. Á liðnu ári 1949. Það má fullyrða, að sjaldan eða máske aldrei í sögu deildarinnar hafi gengið eins vel og einmitt nú. Nýir félagar alltaf að bætast í hópinn.

Á liðnu ári héldum við 9 starfsfundi og auk þess nokkra spila-fundi. Betur þektir undir nafninu "Whist-Drive".

Á liðnu vori héldum við arðberandi samkomu í sambandi við útbreiðslu fund. Á þeim fundi sungu ungmenni þau, er notið höfðu tilsagnar í söng hjá hr. Gunnari Erlendssyni. Hlutu börnin hið mesta hrós fyrir frammistöðu sína. Forseti Þjóðræknisfélagsins, séra Philip M. Pétursson var með okkur þetta kvöld og skemti með ræðu og myndasýningu. Við erum honum innilega þakklát fyrir hans góðu liðveizlu.

Síðast liðið haust héldum við samkomu sem að eldra íslenzka fólkinu í bænum var boðið á. Á þeirri samkomu flutti séra Sigurður Ólafsson fagurt erindi, sömuleiðis, séra Valdimar Eylands sem sagði okkur hugljúfar fréttir frá Íslandi og sýndi myndir. Við erum báðum prestunum þakklát fyrir þeirra góðu aðstoð.

Þess má geta að margir voru sóttir og fluttir heim til sín í sambandi við þessa samkomu og þeim sem ekki gátu verið með, vegna lasleika var send glaðning heim til sín. Vér lítum svo á, að þetta sé vel viðeigandi og vonum að fleiri deildir noti þessa aðferð, að gleðja þá eldri er gæfa hvers manns og um leið er það traustur tengiliður í okkar þjóðræknislega starfi, eins er það líka áríðandi að glæða á huga hinna yngri á verðmætum íslenzkrar tungu. Við trúum því, að allar góðar vættir séu okkur hliðhollar og beri málefni okkar til sigurs. Í því trausti beitum við kneri á ókunnar öldur hins nýbyrjaða árs.

Fjárhagur deildarinnar "Brúin" er sem fylgir:

| | |
|---|---|
| Inntektir á árinu 1949 | $329.93 |
| Útgjöld | $277.72 |
| Í sjóði frá árinu 1948 | $97.14 |
| Í sjóði 31. desember 1949 | $146.36 |

Einar Magnússon, forseti — T. Ísfeld, skrifari

**Skýrsla Þjóðræknisdeildarinnar "Grund"**

Þjóðræknisdeildin Grund í Argyle-bygð er enn við líði, en lítil eru afreksverk hennar á árinu. Hún hefir samþykt að gefa $50.00 í sjóðinn til stofnunar kennara embættis í íslenzkum fræðum við Manitoba háskólann og mun gangast fyrir að gefa meira ef ástæður leyfa. Deildin hefir illa afstöðu með fundarhöld og er illmögulegt að hafa sameininlega fundi í hinum 4 bygðarpörtum á vetrum, en á sumrum er annríki mikið. B. S. Johnson er

forseti deildarinnar, en G. J. Oleson ritari, Ingi Svainson er féhirðir. Einn bezti maður deildarinnar flutti til Winnipeg, á árinu og var það deildinni skaði.

Á árinu kallaði dauðinn hr. A. E. Johnson, sem var ætíð tryggur íslenzkum félagsmálum og deildinni einlægur meðlimur. Skömmu fyrir S. þjóðræknisþing dóu þeir S. B. Gunnlaugsson og Hans Jónsson, sem báðir voru góðir Íslendingar og nú er nýlega dáinn hr. J. A. Walterson, sem lengi var með í Þjóðræknisfélaginu. Í deildinni voru síðast liðið ár 33 meðlimir, eru margir þeirra ágætir þjóðræknismenn og konur sem eru ákveðnir Íslendingar en við erum svo fámenn, að erfitt er að inna af hendi mikið starf, en í Argyle, á íslenzkan samt eins gott griðland og víðast hvar annarstaðar og við vonum að hún eigi eftir að lifa langan tíma.

G. J. Oleson
skrifari

Glenboro,18. febrúar, 1950.

Hr. G. J. Oleson flutti og kveðjur, frá Jónasi Helgasyni og Margréti Jósefsson sem eiga heima í Argyle-bygð til þingsins.

Skýrslum þessum og árnaðar óskum og kveðjum veitti þingið móttöku með þakklæti.

Þingmál sett í nefndir.

**Útbreiðslumál**

Dr. Beck lagði til og Haraldur Ólafsson studdi, að forseti skipi fimm menn í það mál. Forseti skipaði þessa: Gunnar Sæmundsson, Þorstein Gíslason, Harald Ólafsson, Elínu Hall, og séra Jóhann Friðriksson.

**Fjármál**

J. J. Bíldfell lagði til að þriggja manna nefnd sé sett í það mál, Sigurður Baldvinson studdi og var tillagan samþykt. Forseti skipaði þessa í nefndina: Grettir Eggertsson, Einar Magnússon og J. B. Johnson.

**Samvinnumál við Ísland**

Dr. Beck lagði til og Miss Viðdal studdi, að fimm menn séu skipaðir í þá nefnd. Samþykt. Þessir voru skipaðir af forseta: G. L. Jóhannsson, Dr. R. Beck, Böðvar Jakobsson, séra Valdimar Eylands og Einar Sigurðsson.

**Útgáfumál**

Þorsteinn Gíslason lagði til og H. Hjaltalín studdi, að forsetinn skipi þrjá menn í þá nefnd. Samþykt. Forseti skipaði þessa: Jón Ásgeirsson, Mrs. Fríðu Lyons og Hjört Hjaltalín.

**Minjasafnsmálið**

Trausti Ísfeld lagði til og Mrs. A Sigurðsson studdi, að skipaðir séu þrír menn í þá nefnd. Samþykt. Skipaðir voru B. E. Johnson, Þórarinn Gíslason og Sigurður Baldvinsson.

**Málið um breytingu á þingtíma**

S. Finnsson lagði til að í það mál sé skipuð fimm manna nefnd. Mrs. Svanbjörg Sveinsson studdi tillöguna og var hún samþykt. Forseti skipaði í þá nefnd: G. J. Jónasson, Mrs. Svanbjörgu Sveinsson, Ólaf Pétursson, Trausta Ísfeld og Mrs. P. S. Pálsson.

**Málið um hækkun á meðlimagjaldi**

Séra Egill Fafnis lagði til og Mrs. P. S. Pálsson studdi, að forseti skipi fimm menn í þá nefnd. Samþykt. Skipaðir voru: Séra Egill Fafnis, Mrs. Ingibjörg Pálsson, G. J. Óleson, Mrs. B. E. Johnson og Sigurður Finnsson.

Formaður kjörbréfanefndar, séra Egill Fafnis skýrði frá að til þingsins væru þessir erendrekar nýkomnir frá "Brúnni" í Selkirk: Mrs. Ingibjörg Pálsson með 12 atkvæði, Mrs. K. Goodman með 12 atkvæði, Mrs. Fríða Lyons með 10 atkvæði og Mrs. Goodbrandson með 11 atkvæði. Einnig frá Gimli Sigurður Baldvinsson með 20 atkvæði.

**Kveðjur til þingsins**

Forseti las upp bréf frá Thor Thors sendiherra, og frú Ágústu Thors þar sem að þau árna þinginu og Þjóðræknisfélaginu allra heilla og símskeyti frá Helga Briem umboðsmanni í Svíþjóð.

Dr. Richard Beck flutti munnlega kveðjur frá John C. West, forseta háskólans í Grand Forks, N. D., og frá Society for Advancement of Scandinavian Study. Einnig las ritari upp árnaðar óskir frá þjóðræknis deildinni "Aldan" í Blaine, Washington.

Séra Egill Fafnis lagði til og Dr. Beck studdi,

að árnaðar óskum þessum sé veitt móttaka með þakklæti og að ritara félagsins sé falið að viðurkenna þau á viðeigandi hátt. Samþ.

Hr. Forseti Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi....
Séra Philip M. Pétursson.

Þegar 31. þing Þjóðræknisfélagsins kemur saman verður okkur hjónunum hugsað til ykkar allra og þeirra ógleymanlegu ánægjustunda, er við áttum með ykkur í fyrra, er við sóttum hið þrítugasta ársþing. Við viljum færa ykkur öllum okkar einlægustu þakkir fyrir ykkar miklu góðvild og gestrisni á meðan við dvöldumst meðal ykkar. Jafnfram flytjum við þjóðræknisþinginu einlægar árnaðaróskir og vonum að störf ykkar megi í framtíðinni bera glæsilegan ávöxt og gjöra böndin milli ykkar og landa ykkar og vina heima á Íslandi órjúfanleg á öllum ókomnum tímum.

Gæfan fylgi ykkur og ykkar störfum.

Með einlægum kveðjum,
Ágústa og Thor Thors

Stockholm 18. febrúar
Forseti Þjóðræknisfélagsins,
Séra Philip M. Pétursson,
681 Banning St. Winnipeg Man.

Beztu árnaðaróskir til þingsins og allra landa vestra og þakkir fyrir ógleymanlega viðkynningu.

Helgi P. Briem

**Study Group Report from Riverton** sem að forsetinn las.

First Year 1947—48

Our 'Study Group' was organized Oct. 9, 1947, by Mrs. Holmfridur Danielson, the cultural representative of the Icelandic National League. She explained the purposes of such groups and the work that had been done in Winnipeg during the last three years by the Icelandic Canadian club.

The 9 ladies present at the organization meeting all became members. Everyone was in favor of studying ICELANDIC THOUSAND YEARS during the first year. A discussion leader was appointed to be in charge of each lecture, and at each meeting one lecture was read, discussed and supplemented with additional material by group members themselves. The members took turns at having meetings in their homes, and the discussion period was followed with singing, a social period and delightful refreshments.

Our enrollment increased to 18 members, which is too large a group, as there is not the same possibility of giving each individual a chance to take part in discussions. Ten to twelve members seems to be about right. There were 14 meetings held the first year, and two of the members had a perfect attendance.

We felt that we were much wiser, and better educated after having had the opportunity to study ICELANDIC THOUSAND YEARS, and learning what our forefathers had to contend with, and we understood many things that had been very 'foggy' before. And it was the unanimous wish of the group members to continue this interesting experiment for another year.

Second Year, 1948—49

Eight members were present at the first meeting, Oct. 12, 1948. Several new organizations were under way in Riverton that fall and competition for people's time and energy would be keen, but were determined to carry on. We had received from Mrs. Danielson, an outline of the work done by the Icel. Canadian club study group during their third and fourth years of study, which included study of some of the Icelandic pioneer districts in this country, and a study of our Icelandic Canadian authors.

The majority of the members were in favor of studying the history of the Icelandic pioneers in our own country, and elsewhere. For source material we used Þ. Þ. Þorsteinsson's book 3, Jackson's book, and several issues of the Icelandic Canadian. At meeting we also took notes on interesting pioneer incidents related by our older members. For these we are particularly indebted to Mrs. Sigrun Sigvaldason and Mrs. Valdheiður (Briem) Ford. Sometimes members were able to correct errors appearing in one of these books: for example the statement that Ramsay, (well-known Indian friend of the Icelanders) had not been able to speak much English. He was married to an English speaking woman, the daughter of a Hudson's Bay Co. factor, and likely spoke much better English than any of the Icelanders. Many stories are told about Ramsay's

worthy wife who lost her life in the small-pox epidemic and is buried at Sandy Bar.

At the second meeting Nov. 17, we studied about the 3 original village sites in the Icel. colony: Gimli, Sandvík (Sandy Bar) and Lundar, changed to Riverton in 1914 with the coming of the railroad. This was intensely interesting and we concluded by reading G. J. G's immortal poem 'Sandy Bar'. During this lesson many stories about the Indians, never printed, were brought up and the name, White Mud River, now Icelandic River, brought to mind. There is not scope in this report to let you know how we apreciated, the interesting and informative discussions about our own community.

Next we studied about the Icel. pioneers in Utah. At one of our meetings we had a guest a social welfare worker, who seemed most interested in our work. We were telling her about the Sacred Temple of the Mormons in Salt Lake City. While taking her holidays this lady went to Salt Lake City, and saw this famous Temple, and she gave us a fine account of it. At this stage we used certain issues of the Icelandic Canadian a great deal, as it contained a large number of excellent articles on the Utah pioneers, and especially on their descendants; and we certainly feel a lot closer to our kinsmen across the border in Utah, who would be completely lost to us if it were not for those articles.

We studied the Icelandic pioneers of Brazil. As we had 2 non-Icelandic members, three of our group undertook to summarize and translate interesting facts from the available material (Saga Íslendinga í Vesturheimi, and Æfintýri frá Íslandi til Brasilíu, by Þ. Þ. Þ.). First we studied the reasons for choosing Brazil, and the conditions in Iceland which led to this emigration. At one of our meetings we used the National Almanac, 1916, and are grateful to the publishers for the loan of it. We really enjoyed our 'venture into Brazil' but felt sorry that the few families from Iceland were so soon engulfed in the mixed population of Brazil.

We studied Washington Island next, and here again we were helped out by the publishers of the National Almanac (1900). This article was summarized and enjoyed at the last meeting of the second year.

The course for the next year was left undecided, but a resolution was adopted to try to memorize and recite some Icelandis poetry at some of the meetings. We would be most happy to get an Icelandic film, as Riverton has its own projector.

Third Year, 1949—50

The first meeting was held Nov. 2, and this time the members voted in favor of studying poetry and short stories by Icel. Canadian writers: J. M. Bjarnason, Dr. S. J. Johannesson, G. J. Guttormsson and Jón Runolfson. We were fortunate in getting 'Sextíu Æfintýri' by J. M. B. and later his first book of poetry. At the December meeting we read all the Christmas stories in this book. Poems of J. M. B. were also read, and "Halley's Halastjarna" by 'Þorskbítur', which is very well written and took us back to the star-gazing of 1911-12.

At the Jan. meeting the life story of J. M. B., by Dr. J. P. Palsson as read and discussed, and some of us added incidents from our own store of memory.

At the February meeting (Feb. 1.), we had a very full program. Eleven members were present, in spite of the ladies' curling. Two of the members arrived a little late and out of breath as they came from a curling match.

We touched on the possibility of re-organizing the "deild Ísafold", and later an attempt was made to call a meeting, but without much success. Then there was some discussion of the possibility of the study group taking over the 'deild', but we were not clear on whether that could be accomplished without injury to either organization, and there the matter rests.

At this meeting two stories from 'Sextíu Æfintýri' by J. M. B. were read. 'Ari litli fer á skóla', and 'Drengurinn sem var altaf að gráta' The author upholds the Icel. nationality and heritage in all his stories, and we are proud of this. Several of the author's poems were also read, all very good and with an element of kindness running through them.

The real highlight of the evening was a travelogue by Miss Skúlason, on her trip to Miami, Florida, at the beginning of the year. This was very interesting and many of us wished we had been in the sunny south for at least two weeks of this coldest January in 75

years. Our hostess had a number of pictures from Florida, which made it easier to understand the beauty of the vegetation and scenery.

We now have an enrollment of 12 members, and the attendance is excellent. We hold our meetings once a month now.

Kristin S. Benedictson
Study Group Secretary
Riverton, Man.

G. J. Jónasson lagði til og Þorsteinn Gíslason studdi að skýrslunni sé veitt móttaka með þakklæti, og var sú tillaga samþykt.

Þegar að hér var komið málum, lagði G. J. Oleson til að fundarhlé væri tekið í 30 mínútur, eða til kl. 3.45 til kaffidrykkju og til þess að forsetanum ynnist tími til að skipa í nefndir. Þorsteinn Gíslason studdi tilöguna og var hún samþykt.

Formaður kjörbréfanefndar, skýrði frá að komnir væru til þingsins tveir erindrekar frá Gimli, Hallgrímur G. Sigurðsson með 20 atkvæði og Mrs. H. G. Sigurðsson með 20 atkvæði.

Dr. Richard Beck lagði til, að forseta og ritara sé falið að senda hluttekningar og samuðar bréf til ekkju séra Halldórs heit. Jónssonar út af hinu sorglega og óvænta fráfalli hans. Mrs. Sveinsson studdi tillöguna og var hún samþykt.

Dómari Walter Lindal vakti máls á, hvort að ekki væri hyggilegt að setja til síðu svo sem klukkutíma af þingtímanum til þess að ræða um hið verulega ástand, eða afstöðu félagsins og framtíðarhorfur þess. Til máls tóku í því máli J. J. Bíldfell, Dr. Beck, Haraldur Ólafsson, séra Jóhann Friðriksson benti á að hugsanlegt væri, að ef hægt væri að koma á fréttasambandi við menn í sveitum á Íslandi, þá gæti það haft örvandi áhrif. G. J. Oleson, hélt að fréttir úr íslenzkum bygðum hér í landi yrðu áhrifameiri. Trausti Ísfeld hélt að íslenzkar myndir, helzt hreifimyndir mundu hafa vekjandi áhrif hér vestra ef völ væri á þeim. Gísli Jónsson sagði að í kjallaranum hjá sér væri kassi fullur af myndaspjöldum (slides) sem að Þjóðræknisfélagið ætti og menn gætu sjálfsagt fengið til afnota ef þeir vildu.

Trausti Ísfeld gat um að í Selkirk væri ungur maður sem héti Lorny Stefánsson og væri sérstaklega efnilegur að því er hljómlistarhneigð snertir, en gæti ekki notið hæfileika sinna sökum fjárskorts. Hann sagðist minnast á þennan efnilega mann til þess að draga athygli Þjóðræknisfélagsins að honum, og þörf hans.

Þar sem engin önnur mál voru til umræðu og engin þingnefndarálit tilbúin lagði G. J. Oleson til og Dr. Beck studdi að fundi væri frestað þar til kl. 9.30 á þriðjudagsmorgun. Samþykt og fundinum svo slitið.

Á þriðjudagskveldið hélt Icelandic Canadian Club sína árlegu samkomu í Fyrstu Lútersku kirkjunni á Victor stræti. Var það prýðilieg samkoma og vel sótt. Skemtiskráin var sem fylgir:

O Canada
Chairmans Remarks ............ W. Kristjánsson
Daniel McIntyre Operative Group
Selection from Yeoman of the Guard
............................................ Sullivan
Piano Solo — Concerto Grosso ............ V. Beck
Address, — Half a Century
for Canada ...... Sam Freedman, K.C.
Daniel .McIntyre Operatic Group
Piano Accorian Solo ............ Kenneth Brown
(Kenneth Accordion School)
Color Film — The Northern Manitoba Trappers Festival of 1949.
God Save The King

Fundur settur á þriðjudagsmorgun kl. 9.30. Fundargjörningur frá síðasta fundi lesinn og staðfestur. Forseti lagði fram og las eftirfarandi skýrslu frá deildinni "Frón".

**Ársskýrsla Þjóðræknisdeildarinnar "Frón"**

Síðasti ársfundur Fróns var haldinn í G.T. húsinu í Winnipeg mánudaginn 5. des. síðastliðinn. Um 70 manns sóttu þennan fund, og gefur sú aðsókn allgóða hugmynd um tölu þeirra sem að jafnaði sækja fundi og samkomur deildarinnar, aðrar en Frónsmótið. Þetta ber ekki vott um mikinn áhuga fyrir þjóðræknismálum, en sýnir þó að félagsskapur okkar á ennþá fullann rétt á sér, og mun svo verða, á meðan að tíu Íslendingar finnast í þessari borg.

Deildin telur nú um 160 skuldlausa meðlimi og má þar bæta við, öðrum tuttugu, eða þrjátíu, sem að fjármálaritari hefir enn ekki náð til.

Síðasta Frónsmótið, var haldið á Marlborough Hótel. Það var vönduð samkoma og allvel sótt, þó fanst það á, að sumum þótti ekki vel við eigandi að fara austur fyrir Sherbrook str. og verður nú bætt úr því í ár og mótið haldið vestur á Downing St. Tvær aðrar samkomur hafði Frón á árinu og stjórnarnefndarfundir voru tíu.

Stjórnarnefndin hefir verið næstum því óbreytt síðast liðin þrjú ár og var hún endurkosin á síðasta ársfundi, nema hvað einn af embættismönnunum baðst lausnar. Að jafnaði hefir einn maður gengið úr nefndinni á ári á umræddu tímabili.

Nefndin er nú skipuð þessum mönnum:

Forseti — Próf. Tryggvi J. Oleson
Skrifari — Heimir Thorgrímsson
Vara-skrifari — Davíð Björnsson
Féhirðir — Jochum Ásgeirsson
Vara-féhirðir — Pétur Pétursson
Fjármálaritari — Jón Jónsson
Vara fjármálaritari — Örn Þorsteinsson

Deildin hefir enn umsjón með bókasafni Þjóðræknisfélagsins. Safnið er opið á miðvikudögum, bæði að morgni og kveldi. Bókavörður er nú Jón Jónsson. Hann tók við safninu í haust af Davíð Björnssyni sem til margra ára hafði lagt hina mestu rækt við það. Safnið er nú vinsælt af eldra fólki sérstaklega og eru um fimtíu bækur lánaðar út á viku. Kostnaður við safnið varð $280.50 á þessu ári og gekk langmestur hluti þess fjárs til að kaupa nýjar bækur.

Þeim til fróðleiks sem vilja fylgjast betur með starfi deildarinnar læt eg hér fylgja skýrslu féhirðirs deildarinnar, dagsetta 30. nóv. s. l.

**Inntektir**

| | |
|---|---|
| 6. des. Peningar í sjóði | $96.80 |
| 30. nóv. Meðlimagjöld | $128.00 |
| Inntektir á Frónsmóti | $370.50 |
| Samskot á fundum | $20.15 |
| Frá Þjóðr.fé. til bókakaupa | $100.00 |
| Samtals | $715.45 |

Útgjöld

| | |
|---|---|
| Kostnaður við Frónsmótið | $232.90 |
| Kostnaður við fundarhöld | $20.00 |
| Til Þjóðræknisfé. meðlimagjöld | $79.00 |
| Nýjar bækur og bókband | $280.50 |
| Innheimtulaun, frímerki o.s.frv. | $13.00 |
| Samtals | $625.50 |
| Í sjóði | $89.95 |
| Total | $715.45 |

Hér skal dregið athygli að því, að Þjóðræknisfélagið veitti deildinni $100.00 í íslenzkum krónum til bókakaupa árið sem leið. Sömu upphæð hefir það aftur veitt okkur á þessu ári. Fyrir þetta viljum við Frónsmenn þakka.

Annað þarf ekki að athuga við skýrslu féhirðirs, nema þá kanske að benda á það, hve kostnaðurinn við miðsvetrarmótið er orðinn gífurlegur, en nú er ekki lengur hægt að borga bara með "thank you" eins og karlinn sagði.

H. Thorgrímsson
Ritari Fróns

20. febrúar 1950

Miss Elín Hall lagði til og Guðbjörg Sigurðsson studdi að skýrslunni sé veitt móttaka. Samþykt.

Einar Sigurðsson flutti munnlega skýrslu frá deildinni Snæfell í Churchbridge, Sask., er þannig hljóðaði: Eg stend nokkuð öðruvísi og ver að vígi, en fulltrúar frá öðrum deildum, að því leyti, þó að eg væri meðlimur deildarinnar "Snæfell" um langt skeið, og sé það raunar enn, þá hefi eg þó ekki verið búsettur innan vébanda deildarinnar né verið þátttakandi í starfi hennar síðustu tvö, þrjú árin. Þegar að eg kom heim af þingfundi um hádegi í dag var þar fyrir bréf frá skrifara deildarinnar sr. Sigurði Kristópherssyni og fylgdi því umboð til mín um að mæta sem fulltrúi deildarinnar hér á þinginu. En, því miður fylgdi því engin skýrsla um starfsemi félagsins á árinu liðna. Hinsvegar sendir hann mér afrit af fundargjörð aðal fundar deildarinnar sem haldinn hefir verið 30. jan. s.l. og þó sá fundur fjallaði auðvitað fyrst og fremst um einkamál deildarinnar, má þó nokkuð af fundargjörðinni ráða hvernig högum hennar er háttað.

Af eðlilegum ástæðum hefir Snæfell alltaf verið ein af fámennustu deildum Þjóðræknisfélagsins, en eigi að síður mun hún vera ein af þeim elztu, var stofnuð í jan. 1923, er því fullra tuttugu og sjö ára . Séra Jónas A Sigurðsson var þá prestur þar vestra. En hann var eins og kunnugt er eldheitur áhugamaður um þjóðræknismálin og hafði auk þess verið kosinn forseti aðalfélagsins árið áður. Hann mun því hafa sætt sig illa við það, að ekki væri nein skipulögð þjóðræknissamtök í sinni heimabygð. Að minsta kosti boðaði hann til fundar í jan. 1923, þar sem ræða skyldi um stofnun Þjóðræknisfélags deildar. Á þeim fundi var deild stofnuð og nefnd "Snæfell". Nafngefandinn mun hafa verið Austfirðingur, sem í æsku hafði oft séð Snæfells-tindinn "háa hreina".

Stofnendur voru 20 og aldrei mun meðlimatalan hafa orðið mikið hærri en það, og ekki heldur stórum minni, og mun svo enn vera. Því þó mikill meirihluti stofnendanna hafi nú safnast til feðra sinna, hefir tekist að fylla skörðin að mestu, með yngri mönnum og það spáir einmitt góðu um framtíð deildarinnar. Lestrarfélag hafði verið starfandi í bygðinni frá því á fyrstu landnámsárum, sem átti dálitið safn af úrvals bókum, en var nú orðið svo fáment að erviðleikar voru á að starfrækja það. Það varð því að samningum, með lestrarfélaginu og hinni nýstofnuðu þjóðræknisdeild, að hún fengi bókasafn félagsins til afnota með því skilyrði, að ef deildin félli niður og hætti störfum þá skyldi bókasafnið ganga til aðalfélagsins í Winnipeg. Þetta var hið mesta happ fyrir deildina, enda komst starfsemin brátt í það horf, að bókasafnið var aukið, eftir því sem tekjur leyfðu. Gengist var og fyrir árlegum þjóðminningar samkomum og öðrum íslenzkum samkomum við og við, og mun sú starfsaðferð haldast við enn.

Þess er því að vænta, að ef þeirra forustumanna sem nú standa fyrir málum deildarinnar nýtur við, að þá muni hún geta haldið starfinu áfram, enn um hríð.

Virðingafylst

Einar Sigurðsson.

Miss Vídal stakk upp á og Sigurður Baldvinsson studdi, að skýrslunni sé veitt móttaka. Samþykt.

**Þingnefndarálit í samvinnu málum við Ísland**

Framsögumaður G. L. Jóhannsson

1. Þingið fagnar því, að þeir heiðursfélagar vorir, dr. Vilhjálmur Stefánsson og Guðmundur dómari Grímson og frúr þeirra gátu þegið virðulegt boð Þjóðræknisfélags Íslands og ríkisstjórnarinnar og heimsótt ættjörðina síðastliðið sumar; telur þingið, að með því hafi Vestur-Íslendingum almennt verið sómi sýndur og að heimsókn þessi hafi styrkt ættarböndin yfir hafið.

2. Þingið lætur í ljósi ánægju sína yfir komu góðra gesta heiman um haf á liðnu ári, og þá sérstaklega yfir heimsókn þeirra dr. Þorkels Jóhannessonar prófessors og Steingríms Jónssonar rafmagnsstjóra, ásamt frúm þeirra. Þá fagnar þingið því mjög, að hér er staddur sem gestur þess Gunnar Pálsson söngvari frá New York til þess að skemmta oss með söng og myndasýningu, og vottar honum innilega þökk fyrir komuna.

3. Þinginu er það ánægjuefni, að margir Vestur-Íslendingar hafa á árinu heimsótt ættjörðina. Sérstaklega vill þingið þakka það kynningarstarf, sem sér Halldór E. Johnson vann á Íslandi með kveðjuflutningi sínum í ræðum og útvarpi, og séra Sveinbjörn S. Ólafsson með kirkjuræðum sínum og öðrum ræðum. Er allt slíkt starf traustur þáttur í brúarbyggingunni yfir hafið.

4. Þar sem vitað er, að undanfarið hafa verið gerðar eigi allfáar kvikmyndir af Íslandi — landi og þjóð, atvinnu- og menningarlífi — vill þingið beina því til væntanlegrar stjórnarnefndar, að hún leiti fyrir sér, í samráði við Þjóðræknisfélagið á Íslandi, um útvegun á kvikmyndum af Íslandi í litum, sem nota mætti á samkomum deilda Þjóðræknisfélags vors og gæti með þeim hætti orðið öflugur liður í útbreiðslu- og fræðslustarfi félagsins.

5. Þingið vill halda vakandi þeirri hugmynd, að æskilegt væri að bjóða hingað vestur á vegum félagsins skáldi eða fræðimanni, eða öðrum menningarfrömuði frá Íslandi, til ræðuhalda eða upplesturs á samkomum, er félagið sjálft eða deildir þess stæðu að, eins og vel hefir áður gefist.

Grettir Leo Jóhannsson.
Richard Beck
Böðvar H. Jakobsson
E. Sigurðsson

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg 21. febr. 1950

Samþykt var að álitið lið fyrir lið. Allir liðirnir samþyktir umræðulaust og svo nefndarálitið í heild samkvæmt uppástungu G. L. Jóhannssonar sem var studd af Sigurði Baldvinssyni. Samþykt.

Fundarhlé var ákveðið í fimm mínútur til þess að gefa fréttariturum frá blaðinu Tribune tíma til að taka myndir af stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, að því loknu var fundur settur á ný.

Forseti bað ritara að lesa upp nöfn þeirra sem að í nefndir hefðu verið settir.

Forseti skýrði frá, að herra Gunnar Pálsson frá New York væri kominn til þingsins og bauð hann velkominn. Ávarpaði gesturinn þingið vel og sköruglega, þakkaði fyrir sæmd þá sem sér hefði verið sýnd og árnaði þinginu allra heilla.

G. J. Oleson vakti máls á að fallegt og æskilegt væri ef að Þjóðræknisfélagið sæi sér fært að leggja $100.00 í U.N.C.F. — United National Childrens Emergency Fund. Var því máli vísað til fjármálanfendar. Böðvar Jakobsson vakti máls á hve óþarft og óhæfilegt það væri fyrir fólk að vera alltaf að tala um að íslenzkan hér hjá okkur í Vesturheimi væri að deyja. Taldi hann það tal ekki að eins hættulegt fyrir viðhald íslenzks máls og menningar, heldur blátt áfram rökleysu eina.

**Þingnefndarálit í útbreiðslumálum**

Framsögumaður Gunnar Sæmundsson. Séra Egill Fafnis lagði til og Dr. Beck studdi að nefndarálitið, sem var í fimm liðum sé tekið fyrir lið fyrir lið. Samþykt.

1. Þingið þakkar forseta og starfsnefnd þjóðræknisfélagsins starf þeirra á síðastliðnu ári.

2. Þingið hvetur stjórnarnefndina til að gangast fyrir á eins öflugan hátt og unt er, að veita deildum félagsins tækifæri til að njóta aðstoðar eins góðs söngstjóra og völ er á.

3. Þingið hvetur stjórnarnefndina til að athuga ítarlega möguleika á að fá kvikmyndir hjá kvikmyndafélagi Íslands til afnotkunar Þjóðræknisfélaginu og deildum þess.

4. Nefndin leggur sérstaka áherzlu á, söngkenslu, finnst að ekkert hvetji ungdóminn betur til að læra íslenzka tungu en söngvar og ljóð. Nefndin þakkar viðleitni þá, er gerð var með ágætum árangri á síðastliðnu ári, eftir því sem skýrt var frá hér á þinginu.

5. Þingið hvetur væntanlega stjórnarnefnd til að fá góða menn, að heimsækja deildir til fræðslu og skemtana.

Gunnar Sæmundsson
Þorsteinn J. Gíslason
Jóhann Fredriksson
Elín S. Hall
H. Ólafsson

Séra Egill Fáfnis lagði til, og Dr. Beck studdi að nefndar álitið sé rætt lið fyrir lið. Samþykt.

Allir liðirnir voru samþyktir umræðulaust og svo nefndarálitið í heild samkvæmt tillögu séra Egils og Dr. Beck.

Formaður kjörbréfanefndar tilkynti, að til þings væri komin frú Veiga Jóhannesson frá deildinni "Esjan" með 16 atkvæði, og lagði til að henni væri veitt full þingréttindi. Dr. Beck studdi tillöguna og var hún samþykt. Svo var fundi frestað til kl. 1.30 e.h..

Fundur settur kl. 1.30 e. h. Fundargjörningur frá síðasta fundi lesinn og staðfestur.

**Fræðslumál**

Frú Ingibjörg Jónsson las álit nefndarinnar í fræðslumálum, sem var í sex liðum. Þorsteinn Gíslason lagði til Einar Magnússon studdi, að nefndarálitið sé rætt lið fyrir lið. Samþykt.

1. Þingið felur stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins að stuðla að því á allan hátt, að sem flestar deildir félagsins starfræki íslenzku skóla á komandi ári.

2. Þingið telur æskilegt að stjórnarnefndin, í samráði við deildirnar, stofni til kennara fundar í Winnipeg í byrjun næsta skólaárs, þar sem kennarar geta rætt um vandamál sín, kensluaðferðir og fleira og að félagið borgi ferðakostnað eins kennara frá hverri deild.

3. Þingið felur stjórnarnefndinni að panta sýnishorn af linguaphone kenslu-plötum í íslenzku strax og þær eru tilbúnar, og ef hún í samráði við kennarana álítur þær ákjósanlegar fyrir íslenzku skólana, að útvega þá áminstar plötur til afnota í öllum skólunum.

4. Nefndin leiðir athygli að því, að Þjóðræknisfélagið hefir í vörzlum sínum mikinn forða lesbóka, við hæfi barna og unglinga og mælir sterklega með því að þær verði notaðar við íslenzku kensluna.

5. Nefndin leiðir athygli stjórnarnefndar og deilda að því, að nú fæst bráðlega í íslenzku bókabúðinni, bók íslenzkra söngva tilvalin fyrir söngkenslu í íslenzku skólunum og mælir með því að hún verði útveguð til skólanna.

6. Þingið telur æskilegt að útvegaðar séu skuggamyndir í litum til sýningar í skólunum.

Ingibjörg Johnson
Gunnar Sæmundsson
Kristín Pálsson
Egill H. Fáfnis
John B. Johnson

Þorsteinn Gíslason lagði til að nefndarálitið sé rætt lið fyrir lið, stutt af Einari Magnússyni. Samþykt.

1. liður samþyktur.

2. liður. Uppástunga frá G. J. Oleson og Einari Magnússyni um að hann sé samþyktur. Breytingar tillaga frá séra E. H. Fáfnis og Sigurði Baldvinssyni, um að liðnum sé skift. Breyting við þá breytingar tillögu frá J. J. Bíldfell og Þorsteini Gíslasyni um að liðnum se vísað til fjármálanefndar og var hún samþykt.

3. liður. Uppástunga frá séra E. H. Fáfnis og Ólafi Péturssyni um að liðurinn sé samþyktur. Breytingartillaga, frá Mrs. Backmann sem að Miss Vídal studdi um að liðnum sé vísað til fjármálanefndar þingsins var samþykt.

4. Liður samþyktur, 5 og 6 sömuleiðis.

Jónbjörn Gíslason flutti allangt erindi og mælti með því að Þjóðræknisfélagið styrkti Óla Kárdal fjárhagslega við söngnám hans.

**Útgáfumál**

Nefndin í útgáfumálum leyfir sér að gera eftirfarandi tillögur.

1. Þingið þakkar Gísla Jónssyni ritstjóra Tímaritsins Þjóðræknisfélagsins ágætt starf hans að ritinu.

2. Þingið vottar Mrs. P. S. Pálsson þökk fyrir áhugasamt og árangursríkt starf hennar, við söfnun auglýsinga og sömuleiðis tjáir þingið þakkir sínar til allra þeirra sem stutt hafa ritið með því að auglýsa í því.

3. Þingið þakkar Þjóðræknisfélaginu á Íslandi fyrir ágæta samvinnu og mikilvæga aðstoð við útbreiðslu Tímaritsins sem að félagið kaupir í hundruðum eintaka og útbýtir til meðlima sinna.

4. Þingið felur væntanlegri stjórnarnefnd að annast útgáfu ritsins á komandi ári, eins og að undanförnu, ráða ritstjóra og sjá um framkvæmdir allar í því sambandi.

Jón Ásgeirsson
H. T. Hjaltalín
Mrs. F. Lyons

Stungið var upp á að nefndarálitið væri rætt lið fyrir lið og var það samþykt.

Fyrsti liður samþyktur; annar, þriðji og fjórði liður sömuleiðis, en áður en nefndarálitið var samþykt í heild kvaddi Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins sér hljóðs og benti á að tími væri kominn til að athuga ýmislegt í sambandi við útgáfu ritsins, svo sem ritlaun, sem væru nú orðin óheyrilega lág í samanburði við það sem almennt gerðist. Einnig benti hann á, að sumir af höfundum þeim sem í ritið skrifuðu, vildu fá afrit af ritgjörðum sínum og lét í ljósi efa sinn um, hvort að sanngjarnt væri að ætlast til að þeir borguðu fyrir það sjálfir. Eftir nokkrar umræður var álitinu vísað aftur til nefndarinnar til frekari athugunar.

**Háskólamálið**

Forseti las bréf frá Dr. P. H. T. Thorláksson forseta söfnunar nefndarinnar í því máli, þar sem að hann tók fram, að sökum fjarveru gæti hann ekki mætt á þinginu, bað því allra heilla og tók fram, að ungfrú Margrét Pétursson skrifari fjársöfnunar nefndarinnar mundi mæta á þinginu, ásamt þeim Walter Lindal dómara, og G. L. Jóhannssyni konsúl og gefa skýrslur um störf fjársöfnunar nefndarinnar.

Úngfrú Margrét flutti skýrslu sína sem var skýr og skilmerkileg.

Waulter Líndal dómari las upp eftirfarandi reglugerð og ákvæði sem fjársöfnunarnefndin hafði samið. Grettir L. Jóhannsson las og lagði fram aðra reglugjörð og ákvæði í sambandi við fjársöfnun, sem fylgir, og gerði uppástungu og var hún samþykt.

**Stofnendur kennaraembættis í íslenzkri tungu og íslenzkum fræðum við Háskóla Manitobafylkis**

Reglur og Ákvæði

Stofnendur skiftast í fjóra flokka. Allir stofnendur, í hvaða flokki sem er, verða að leggja fram ekki minna en eitt þúsund dollara.

**Fyrsti flokkur — Einstaklinga Stofnendur**

Í þessum flokki eru allir sem leggja fram persónulega $1000.00 eða meir. Öll bréfaviðskifti í sambandi við borganir annast skrifari Stjórnarnefndar Stofnendanna, Miss Margrét Pétursson, 45 Home St. Winnipeg. Ávísanir borgast til Háskóla Manitobafylkis og eiga að sendast til skrifarans, eða til F. W. Crawford, féhirðis Háskólans.

**Annar Flokkur — Félaga Stofnendur**

Í þessum flokki eru félög svo sem Þjóðræknisfélagið og deildir þess, The Icelandic Canadian Club, og aðrir íslenzkir félagsskapir. Öll bréfaviðskifti annast sá sem hvert félag kýs til að taka að sér að safna hinni ákveðnu þúsund dollara upphæð og eiga framlög að sendast til hans. Háskólinn gefur kvittanir fyrir öll framlög sem eru $25.00 eða meir. Viðeigandi félög veita kvittanir fyrir gjafir sem eru fyrir neðan $25.00.

**Þriðji Flokkur — Minningar Stofnendur**

Í þessum flokki er fólk sem leggur saman krafta og gefur $1000.00 eða meir í nafni einhvers, lifandi eða liðins, sem það vill heiðra og mynda þannig stofnanda sem kallast, Minninga Stofnandi. Þeir sem á þennan hátt leggja saman sín framlög mega kjósa einn í sínum hóp til þess að taka að sér ábyrgð að safna hinni ákveðnu upphæð og skal hann nefndur Formaður. Ráðstafanir í sambandi við fjársöfnun í þessum flokki annast W. J. Lindal, dómari, 788 Wolseley Avenue, Winnipeg. Öll framlög eiga að sendast annaðhvort til hans eða til Formanns viðeigandi stofnheildar.

**Fjórði Flokkur — Hóp Stofnendur**

Í þessum flokki eru einstaklingar, margir eða fáir, sem til samans gefa $1000.00 eða meir og á þann hátt mynda stofnanda sem kallast Hóp Stofnandi. Til að aðgreina Hóp Stofnendur, einn frá öðrum, skal nefna þá með tölustaf, nafni á byggð eða á einhvern annan hátt. Sá sem tekur að sér ábyrgð að mynda Hóp Stofnanda og safna hinni ákveðnu upphæð skal nefndur Formaður. Ráðstafanir í sambandi við fjársöfnun í þessum flokki annast Grettir L. Johannsson, konsúll, 910 Palmerston Ave., Winnipeg. Öll framlög eiga að sendast annaðhvort til hans eða til Formanns viðeigandi stofnheildar.

**Allmenn Ákvæði**

Öll framlög eru fúslega þegin en stjórnarnefndin mælist til að þeir sem gefa minna en $25.00 sendi upphæðina til einhvers stofnanda eða félagsstofnanda kennarastólsins.

Skrautrituð stofnendaskrá yfir lala Stofnendur verður geymd í skjalasafni Háskólans og afskrift send til Íslands og ef til vill víðar. Félög, sem eru stofnendur, ákveða hvað það nái yfir sem þau vilja setja í stofnendaskrána.

Stofnendur í þriðja og fjórða flokki skulu skráðir þannig að nafn Stofnandans kemur fyrst, svo nafn Formannsins og þar á eftir nöfn allra í þeirri stofnheild.

Framlög eða afborganir af framlögum eiga að borgast fyrir 17. júní 1952.

Öll störf eru sjálfboðin og engan kostnað hvort heldur persónulegan eða í sambandi við ráðstafanir í heild sinni, má taka úr framlögum til kennaraembættisins.

Stjórnarnefnd Stofnendanna

21. febrúar, 1950

Á ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

Herra forseti!

Háttvirt Þjóðræknisþing!

Það hefur fallið í mitt hlutskifti, að skýra fyrir yður afstöðu Þjóðræknisfélagsins á tveimur undanförnu þingum eins og hún birtist í ályktana formi og prentuð var í þingtíðindunum.

Á 29da ársþingi félagsins var eftirfarandi skýrsla þingnefndar í Háskólamálinu samþykkt.

"Í samræmi við grundvallar atriði stefnuskrár sinnar um varðveizlu íslenzkra menningarerfða og útbreiðslu þekkingar á þeim, hefir Þjóðræknisfélagið frá því snemma á

starfstíð sinni litið svo á, að stofnun kennaraembættis í íslenzkum fræðum við Manitobaháskóla væri eitt hið mesta framtak, sem Íslendingar gætu innt af hendi í þessari álfu; og hefir sú stefna haldist óbreytt. Stofnun slíks kennaraembættis yrði einstætt afrek meðal Íslendinga erlendis.

Máli þessu hefir eigi aðeins verið haldið vakandi af hálfu Þjóðræknisfélagsins, heldur hafa á síðari árum ýmsir einstaklingar og félög gerst forgöngumenn þess, með þeim árangri, að málið er nú komið á hið ákjósanlegasta stig, þó takmarkinu hafi eigi enn að fullu verið náð. Sérstök nefnd hefir málið með höndum og vinnur ötullega að framgangi þess.

Í sjóði eru nú $65,500.00 og að auk nokkrar þúsundir í tryggum loforðum. Þær upphæðir sem í sjóði eru, hafa verið gefnar með því skilyrði, að ef sjóðurinn nær $100,000.00 takmarkinu fyrir 10. janúar 1949, þá megi byrja að nota hann til stofnunar kennarastólsins. Ákveðið hefir verið, að stofnfélagar gefi minst $1000.00 upphæð.

Samkvæmt ofanskráðu og afstöðu Þjóðræknisfélagsins í þessu máli frá byrjun, leggur nefndin til, að Þjóðræknisfélagið leggi fram $2,000.00 tillag í stofnsjóð kennaraembættis við Manitoba-háskóla."

Gjörðir síðasta þings voru sem hér á eftir skal skýrt:

"Nefndin, sem sett var í háskólamálinu leggur eftirfarandi tillögur fyrir þingið:

1. Nefndin lætur í ljósi ánægju sína yfir framgöngu og viðhorfi þessa máls eins og það birtist í skýrslu Dr. Thorlaksonar.

2. Nefndin lætur í ljósi ánægju sína yfir þeirri fullvissun háskólasjóðsnefndarinnar að nafna allra þeirra, er leggja til stólsins, verði getið í skrá þeirri, er geymir sögu stólsins.

3. Þar sem verður nauðsynlegt að leita almennra samskota upp að í minnsta lagi $20,000.00 leggur nefndin til:

(a) að Þ. F.Í. V. og deildir þess taki virkan þátt í söfnun þessa fjár.

(b) að Þ. F. Í. V. og deildir þess leitist við að safna frá almenningi að minnsta kosti $15,000.00 fyrir 17. júní 1952.

(c) að framkvæmdarnefnd Þ. F. Í. V. í samráði við deildir þess ráðstafi með hverjum hætti þessu fé skuli safnað.

(d) Nefndin vill samt leggja til að lágmark einstaklings tillags sé $25.00, sem þurfi þó ekki að greiðast í einu lagi, svo lengi sem upphæðin lofuð sé greidd fyrir 17. júní 1952 og að framkvæmdarnefnd Þ. F. Í. V. láti prenta skírteini, er nota má þegar upphæðin er greidd öðruvísi en í einu lagi.

4. "Nefndin hvetur deildir Þ. F. Í. V. að greiða eins vel og mögulegt er götur Thorlakssonar og samnefndarmanna hans, er hann heimsækir hinar ýmsu bygðir Íslendinga í sumar.

Nefndarálitið var afgreitt á þingi að undanteknum 3c-lið, sem feldur var úr nefndarálitinu lútandi að þeim aðferðum sem félagið og deildir þess skyldu beita við væntanlega fjársöfnun; en eins og nú horfir við leyfi eg mér í samráði við nefndina sem unnið hefur að framkvæmdum varðandi fjársöfnun til stofnunar væntanlegs kenslustóls við Manitoba-háskólann, að veita skýringar sem nefndin telur hagkvæmar, og í rauninni óumflýjanlegar við frekari fjársöfnun. Eg hefi hér meðferðis bækur sem væntanlegum safnendum verða fengnar í hendur og bera með sér hvernig söfnuninni skuli hagað og hvernig þeim peningum sem safnast skuli komið á framfæri.

Nefndin telur það hagkvæmilegast og líklegast til góðs árangurs, að tveir menn vinni í sameiningu að fjársöfnuninni í hlutaðeigandi bygðalagi. Til frekari skilningsauka vil eg benda á ummæli herra Walters J. Líndal, dómara um mál þetta og skilgreining á stofnendum, sem leggja fram að minsta kosti $1,000.00, félaga stofnendum sem einnig leggja fram að minnsta kosti $1,000.00, og hópstofnendum er í sameigingu leggja fram $1,000.00 eða meira. Öllum upphæðum verður viðtaka veitt þótt eigi verði gengið eftir með söfnunaraferð lægri upphæð en $25.00.

Nú er nefndin að skygnast eftir sjálfboðum er sjálfir vilja leggja eitthvað af mörkum og vinni jafnframt að söfnun í umhverfi sínu. Þetta mál er í eðli sínu mál allra Íslendinga og þessvegna liggur nefndinni það þungt á hjarta, að verkin sýni merkin, með sem allra almennustu fjárframlögum og samtökum.

Mér er það persónulega afar mikið fagnaðarefni, hve þessu mikilvæga máli, stærsta menningarmálinu, sem Vestur Íslendingar hafa nokkru sinni tekið sér fyrir hendur, miðar í rauninni ágætlega áfram, þó enn skorti nokk-

uð á, að fullnaðartakmarki sé náð; og eg finn til þakkarskuldar við alla þá menn sem fórnað hafa miklu af tíma sínum og miklu fé til stuðnings við fullnaðarfrágang málsins. Þetta hefur styrkt mig persónulega í minni þjóðræknislegu trú og eg er viss um að það hafi styrkt marga fleiri en mig. Eins og eg gat um áðan, hefi eg meðferðis til útbýtingar áminnstar söfnunarbækur og treysti því jafnframt að sem flestir gefi sig fram og gerist áskrifendur með ríflegum upphæðum, veiti bókunum viðtöku og hefji söfnun eins fljótt og því framast verði viðkomið.

Traustari, fegurri og varanlegri minnisvarða yfir íslenzka frumherja í þessari álfu er ekki unnt að reisa en kenslustólinn í íslenzkri tungu og menningarerfðum við æðstu menntastofnun þessa fylkis, Manitoba háskólann. Þetta er stærsta menningarmálið, og hlýtur að verða mesta metnaðarmálið sem Íslendingar Vestan hafs hafa nokkru sinni gefið sig við.

Grettir Leo Jóhannsson

State of North Dakota Supreme Court
Bismark, February, 15, 1950

Mr. A. P. Johannsson,
910 Palmerston, Ave. Wpg. Man.

I had hoped to attend the National League Convention next week but find it impossible, much to my regret.

Some report is due on the Leif Eiriksson Memorial. The resolution introduced in the US Senate last winter by Senator Young and others received favorable consideration in committee according to Senator Young. It was held up, however, pending an investigation of the cost of the base. I believe the Fine Arts Commission has selected a site along the Potomac River. It has always furnished the figures for the cost of the base. That started originally with $10,000.00. Then right after the war it was raised to $20,000.00. Now it has again been raised to $40,000.00. That is what is holding up the resolution. Without an appropriation the resolution would pass promptly. I do not thing, however, that we should undertake to raise the money. As long as we furnish the statue the Government should build a base. I have asked them to investigate whether a suitable site could not be found where the cost of the base would be lower. Mr. Thors has been giving his assistance. That is the status of the matter now. In the meantime the statue is being well taken care of on the grounds of the Marines Museum at Newport, Virginia.

Will you kindly make a report to the convention and ask for advice what to do now. Needless to say I will continue my efforts.

Extend my greetings and best wishes to the Convention.

Sincerely yours,
G. Grimson

Dr. Beck lagði til að skýrslum og tillögum fjársöfnunarnefndarinnar sé veitt móttaka með þakklæti. J. J. Bíldfell studdi. Samþykt.

G. L. Jóhannsson gerði tillögu um, að forseti skipi einn mann frá hverri deild í þjóðræknisfélaginu til að athuga skýrslurnar sem fram hefðu komið á þinginu. Böðvar Jakobsson studdi tillöguna og var hún samþykt.

**Breyting á Þingtíma**

Trausti Ísfeld lagði fram álit þingnefndarinnar í því máli sem var í tveimur liðum og hljóðaði þannig:

Nefndin leggur til, að 24 grein Þjóðræknisfélagslaganna sé breytt þannig, að ársþing Þjóðræknisfélagsins skuli vera háð á þeim stað og tíma, sem að hvert þing ákveður. Að öðru leyti skal áminst lagagrein halda sér eins og að hún er.

G. J. Jónasson
Svanborg Sveinsson
Ólína Pálsson
Ó. Pétursson
T. Ísfeld.

Séra Egill Fafnis lagði til að nefndar álitið sé samþykt. G. J. Jónasson studdi tillöguna, en áður en að hún var samþykt spunnust nokkrar umræður út af orðalagi hennar, svo að henni var vísað aftur til nefndarinnar til frekari athugunar. Eftir lítinn tíma lagði nefndin í lagabreytingar málinu aftur fram álit sitt, sem hljóðaði þannig: Nefndin leggur til, að þingtímanum sé breytt þannig, að þingið skuli háð í fyrstu viku júní næsta ár, svo framar-

